Őreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

36. tölublað. Þriðjudaginn 18. október 6. árgangur. Verð kr. 60.

# Svika samningar St.Rv.

Starfsmannafélag Reykjavíkurborgar hefur nú samið við borgarstjórn og er verkfalli borgarstarfsmanna því lokið. Þar með er höggvið skarð í þá einingu, sem ríkt hefur innan heildarsamtaka opinberra starfsmanna. Eininguna um að með verkfallsaðgerðum skyldi reynt, að ná fram verulegum launahækkunum, sem og endurskoðunarrétti á samningstímabilinu. Samningur borgarstarfsmanna er aðeins óverulega hærri, en sáttatilboð það sem allur þorri opinberra starfsmanna felldi í allsherjaratkvæðagreiðslunni 2. og 3. okt s.l. Í samningnum er heldur enginn endurskoðunarréttur aðeins vilyrði um að fá að "ræða við fjármálaráðherra" ef t.d. vísitölunni yrði kippt úr sambandi.

Ríkisvaldið hefur eins og við var að búast neytt allra ráða til að draga úr áhrifamætti allsherjarverkfalls BSRB og sundra samstöðu opinberra starfsmanna. Má þar nefna Kjaradeilunefnd, sem farið hefur gróflega út fyrir sitt verksvið. Á þann hátt hefur nefndin í skjóli lagalegs valds reynt að skapa rugling í röðum verkfallsmanna um leið og hún þröngvar stórum hópum þeirra til verkfallsbrota. Sú aðferð auðherranna að beita fyrir sig uppeyptri forystu hefur þó nú eins og svo oft áður reynst þeim drýgst. Í þetta sinn var stjórn Starfsmannafélags borgarinnar undir forystu Þórhalls Tryggvasonar og Hersis Oddssonar varaformanns BSRB sá hlekkur sem fyrst lét undan. (Nokkur bæjarstarfsmannafélög hafa þó þegar samið en þeir samningar fólu vel flestir í sér meiri kjarabætur auk endurskoðunarákvæða).

Engan skyldi þó undra svikin þegar haft er í huga þær yfirlýsingar sem Þórhallur hefur látið hafa eftir sér í fjölmiðlum þar sem hann m.a. sagði fyrir verkfall að "hans félag hyggðist ekki taka þátt í verkföllum ef til þeirra kæmi" og ef um leið er höfð í huga þögul hjáseta Hersis í öllum meiriháttar ákvarðanatektum er stjórn og samninganefnd BSRB hefur tekið. Það vakti þó furðu manna hversu hraustlega Þórhallur Tryggvason gekk fram í að sýna eigið þýlyndi við borgarstjórnarmeirihlutann og þar með "flokk allra stétta" Sjálfstæðisflokkinn. Er engu líkara en Þórhallur hyggist feta sömu brautir og Guðmundur H Garðarsson formaður VR er fær að verma einn stól á Alþingi, sem laun fyrir áralangt þýlyndi við auðherrana.

Stjórn Starfsmannafélagsins reyndi fyrst með ofsa og fúkyrðum að fá fólk til að leggja blessun sína yfir samningana, sem það hafði ekki svo mikið sem séð en þegar sú leið mistókst svo hrapalega sem öllum er kunnugt sneri formaðurinn blaðinu við og kom sem "nýr og iðrandi" Þórhallur. Nú voru mistökin af "stóra fundinum" ekki endurtekin. Heldur voru boðaðir margir minni fundir þar sem auðveldara yrði að hafa hemil á andstöðunni. Þar voru menn beðnir velvirðingar á "gamla" uppkastinu, það nýja væri sko miklu betra. Og til að tryggja nú meirihluta var beitt orðaflaum, blekkingum og rangtúlkunum, svo ekki sé minnst á hreinar falsanir á orðum annarra leiðtoga BSRB.

Að lokum fór svo að 1131 greiddi atkvæði með samningunum en 545 á móti. Þeir sem greiddu atkvæði gegn samningnum voru raunverulega að krefjast þess að núverandi stjórn Starfsmannafélagsins viki tafarlaust. Öllum var þó orðir ljóst að ef þessi tillaga yrði felld kæmi aðeins fram önnur ný örlítið skárri eða a.m.k. óljósari. En á meðan viðræður Þórhalls og Birgis stæðu yfir væri hins vegar ekki minnsta von um að takast mætti að knýja samninganefnd ríkisins að samningaborðinu, hvað þá til samninga. Enda kom það í ljós, að strax og búið var að samþykkja í Reykjavík kom kallið ríkisstjórninni, nú var kominn tími til að semja. Brölt Þórhalls hefur því ekki aðeins orðið til að veikja nokkuð sigurlíkur þeirra sem enn eru í verkfalli og "neytt" lélegan samning upp á borgarstarfsmenn, heldur hefur það einnig orðið til að draga verkfallið á langinn og þannig valdið þúsundum alþýðuheimila miklu fjárhagstjóni.

Þetta var mörgum þeim sem greiddu samningnum atkvæði ljóst. Þeir sáu svik forystu sinnar, en fundu enga lausn. Fram til næstu kjarasamninga eru tvö ár. Þann tíma þarf að nýta til að treysta samtök borgarstarfsmanna og velja þar til forystu heiðarlega og baráttufúsa einstaklinga sem meta hagsmuni sinna umbjóðenda meira en þingsætadrauma og höfðingjadekur.

Útifundur BSRB og þá ekki síður verkfallsfundir aðildarfélaga BSRB hafa sýnt, að þeir sem enn eru í verkfalli ætla hvergi að hvika frá meginkröfunum þremur. En svikasamningar forystuklíku Starfsmannafélags Rvk. hafa sýnt þeim nauðsyn þess að afhjúpa alla úrtölumenn áður en þeir geta valdið skaða.

BSRB-flagar! Hvikum hvergi!



Borgarstjóri þakkar Þórhalli vel unnin störf.



Útifundur BSRB sem haldinn var laugardaginn 15. okt. Þar ríkti einhugur gegn klofningssamningi Starfsmannafélags Reykjavíkurborgar.

# Grænlandsvinafélag stofnað

Steinsnar frá Íslandi liggur land sem heitir Grænland og þar býr þjóð sem Danaveldi kúgar engu síður og jafnvel enn meir en það á sínum tíma kúgaði íslensku þjóðina. Sú kúgun fer fram á annan hátt heldur en venjuleg vopnuð nýlendukúgun. Danir beita þeim aðferðum að halda áfengi mjög að Grænlendingum, jafnvel borga út kaup í brennivíni, fólk er flutt nauðungarflutningum, sem fara fram þannig að öll þjónusta verslun, samgöngur og fræðslukerfi er lagt niður í þeim bæjum þar sem fólkið býr. Þannig neyðist það þvert gegn vilja sínum til að flytjast búferlum. Og hvert getur fólkið farið annað en þangað sem danskir atvinnurekendur hafa ætlað sér að það fari. Nefnilega þangað sem þá vantar vinnuafl. Markvisst vinnur danska nýlendustefnan að því að brjóta niður þjóðernisvitund grænlenskrar alþýðu t.d. með því að bæla niður grænlenska menningu og siðferðisvitund. Einnig er það stefnað Dana að leggja niður grænlenska tungu. Grænlenskar auðlindir s.s. námur og fiskimið nýtir danska auðvaldið sér annað hvort beint eða makkar með þær. T.d. er sovéski ryksuguflotinn að mergsjúga það sem kvikt er á fiskimiðum Grænlands. Allt þetta og meira á sér stað við bæjardyr okkar Íslendinga og fram til þessa höfum við lítið sem ekkert aðhafst. En nú er kominn tími til að snúa blaðinu við.

Fimmtudaginn 13.10 var stofnað félag í Reykjavík sem stuðla á að aukinni vináttu við grænlensku þjóðina. Það sem Grænlendingar þurfa nauðsynlega á að halda í sjálfstæðis- og frelsisbaráttu sinni frá hendi íslenskrar alþýðu, er skilningur og stuðningur. Þess vegna brugðu nokkrir framtakssamir menn á það ráð að koma á laggirnar þessu félagi, sem hafði lengi verið hugmynd en varð nú að framkvæmd. Í upphafi stofnfundarins var sýnd kvikmynd frá Grænlandi en síðan urðu umræður. Árni Johnsen úr Eyjum var fundarstjóri og fyrst talaði eini Grænlendingurinn sem staddur var á fundinum en það var Bendó Þorsteinsson. Hún kynnti Grænland stuttlega og leyfði mönnum að heyra nokkur vel valin orð á grænlensku. Næstur talaði Guðmundur Þorsteinsson verkamaður úr Straumsvík sem hefur ásamt Bendó (en þau eru hjón) látið sér málefni Grænlands mikið varða. Þau tvö eru í raun aðal driffjaðrirnar að stofnun félagsins og

Framhald á baksíðu

# Landsráðstefna Samtaka Herstöðva andstæðinga

Daganna 15 og 16 okt var landsráðstefna SHA haldin í Festi í Grindavík. Heldur færra var á ráðstefnunni nú en hinar tvær undanfarnar. Eftir hádegi á sunnudag fór fór þó heldur fjölgandi enda voru þá allar kosningar eftir! Á laugardagskvöldið var kvöldvaka með söng, upplestri og leikjum. Var þar leikinn "bitlinga-bolti" þar sem keppendur voru heftir og með hatta með nöfnum ráðherra og reyndu þeir að skjóta "bitlingi" að sínum "kjósanda" Einnig var hafður í frammi "flokkadráttur". Fulltrúar voru valdir frá þeim stjórnmálaflokkum sem styðja SHA og háðu þeir með sér reiptog. Voru þátttakendur merktir með pappírssvuntum er á var letrað KFÍ, X-G moldvarpa NS (nytsamir sakleysingjar) og EIK. Togaði síðan hver í sinn enda á fimm spottum sem hnýttir voru saman í miðju -nema hvað svunta EIK hékk tóm í sínum enda því engin EIK-ari var til staðar. Eins og gefur að skilja sigraði lína KFÍ í flokkadrættinum og þótti það táknrænt mjög fyrir gang mála á ráðstefnunni!

Megin verkefni landsþingsins var störf og stefna samtakanna. Margvíslegar ályktanir voru gerðar um starf svæðahópa um útgáfumál, rannsóknarstörf og aðgerðir. Var m.a. samþykkt að stefna að stórri göngu í maí eða júní. Um aðgerðir að næstkomandi vori var mikið rætt enda verða kosningar þá á næsta leiti en herstöðvaandstæðingar eru í mismunandi stjórnmálaflokkum. Óttuðust sumir að flokkadrættir yrðu þá aðrir en góðlátlegt grín með kaðalspotta. En herstöðvaandstæðingar hafa að undanförnu lært að starfa saman þótt mismunandi skoðana og hagsmuna hafi

Framhald á síðu 3.

LEIÐARI

# Samningar hálaunamanna

Nú hefur samstaða opinberra starfsmanna verið rofin með þeim samningi sem Starfsmanna félag Reykjavíkurborgar St.Rv. hefur nú samþykkt. Það er líka nokkuð athyglisvert við þennan samning hvað St.Rv félagar virast ánægðir með samkomulagið. En af þeim sem greiddu atkvæði voru tvöfalt fleiri hlyntir samningnum en þeir sem voru á móti honum. Þennan mikla mun er þó ekki hægt að skýra með því að samningurinn sé svona hagstæður fyrir allan fjöldann í St.Rv þvert á móti er samningurinn mjög óhagsstæður fyrir allan þorra félagsmanna St.Rv. Meðal launa hækkunin fyrir þá sem eru í fyrstu tólf launaflokkunum er um 18.000. kr. á mánuði, en um 28.000. kr. fyrir þá sem eru fyrir ofan. Í ljósi þess að í þessum 12. fyrstu launaflokkum eru 2/3 allra félagsmanna St.Rv eru þessir samningar fyrir hálaunamenn innan St.Rv

Sú spurnig hlýtur að vakna hvernig á því geti staðið að þeir lægstlaunuðu innan St.Rv fylkja sér svonamjög um samninga sem breikka enn meira bilið milli þeirra sem betur eru launaðir og þeirra sjálfra.
Er það rétt sem sumir hafa haldið fram að það sé sama hvað Mogginn og íhaldið nýðist á almenningi hann muni þrátt fyrir það halda áfram að kyssa á vöndinn. Vonandi er það ekki svo, en þó er það staðreynd íhaldsemin og hræðslan við yfirboðara er eitt helsta einkennið á mörgum opinberum starfsmanninum. Hér áður fyrr var það þannig að fyrst var spurt um hvort maður væri íhaldsmaður áður en hægt var að fá starf hjá borginni, en nú er þetta að breytast þó hægtfari. Engan ætti því að undra á því hversu íhaldið hefur sterk tök innan St,Rv eins og fram hefur komið nú. Þeir sem fremstir hafa staðið í því að koma þessum samningum í gegn eru nær allir hálaunamenn svo að samningarnir eru ekki svo mjög slæmir fyrir þá, og þeir eru ekki fleiri en svo að ríkið er tilbúið að seggja út í nokkurn kostnað til að geta fengið þá til að vinna fyrir sig annað verk sem er jafnframt tilgangur með þessum samningi. Með því að koma í gegn svona lélegum samningi fyrir þá lægst launuðu innan ST.Rv telur íhaldið að hægt muni að þvinga BSRB til að gangast inn á svipað samkomulag . Auk þess sem samningur við St.Rv klýfur þá samstöðu sem upp var komin milli St.Rv og BSRB. Nú telja stjórnvöld að auðveldara verði að hafna kröfum BSRB um að þeir lægstlaunuðu fái mesta launahækkun. Einnig mun ríkisstjórnin benda á samninga St.Rv sem viðmiðun þegar þeirsvara kröfu BSRB um að fjölmennustu hóparnir fái verulega leiðréttingu sinna mála. Og samningur St.Rv verður líka notaður til viðmiðunar þegar svarað verður kröfum BSRB um endurskoðunarréttinn. Hinn ný gerði kjarasamningur St. Rv. er því ekki síst beint gegn kröfum BSRB og verður vafalauat notaður sem rök gegn þeim sem enn eiga eftir að gera kjarasamninga í þessari kjaradeilu. Með brögðum og með því að nota léttadrengi sína innan St.Rv. hefur íhaldinu tekist að afla sér beitts vopns. Vegna alræðisvalds síns innan St.Rv. sem byggt er á gömlum erfðum, hefur íhaldið unnið vissan sigur á þeim lægst launuðu. En þessi sigur var keyptur nokkuð dýru verði og fjölmargir hafa séð í gegnum þann lygavef sem íhaldið hefur spunnið í kringum þessar tilraunir sínar. Árangur baráttunnar verður því að teljast nokkur því aldrei hafa jafn margir snúist gegn áður ótvíræðum húsbændum. Það er því mjög mikilvægt verkefni sem bíður þeirra sem þegar hafa hafið baráttu innan St.Rv. en það er að safna saman andstöðunni gegn svikurunum í stjórninni og taka yfir félagið. Þetta ætti að vera þeim léttara vegna þess hvernig nýgerður kjarasamningur er verður stöðugt augljósari svik við þá lægstlaunuðu sem eru 2/3 allra félagsmanna og því augljós meirihluti, sem fyrr eða síðar mun taka völdin í St.Rv.

17/10.

# BSRB: Verkfallsfundir í félögunum

Í yfirstandandi verkfalli heldur SFR (Starfsmannafélag ríkisstofnanna) sem er fjölmennasta félagið innan BSRB daglega fundi fyrir félagsmenn, þar sem staðan í samningunum er rædd , starfið skipulagt og þar sem menn geta komið fram hugmyndum og gagnrýni í sambandi við framkvæmd verkfallsins . Slíkir fundir (sem nokkur félög s.s. kennarafélögin hafa síðan líka tekið upp ) eru gífurlega mikilvægir til að auka lýðræðið í félögunum og virkja fjöldann til starfa að eigin kjarabaráttu. Það er að vakna æ meiri skilningur á því að "verkalýðsforingjar" vinna enga sigra fyrir fjöldann og margir þeirra eru meira að segja andsnúnir hagsmunum hans, heldur er það virkni fjöldans og stéttarvitund sem úrslitum ræður í baráttunni. Ber að fagna því að slíkir fundir sem þessir séu haldnir og þurfa félagar BSRB að krefjast þess af sínum félögum að þeim verði framhaldið eða þeir teknir upp. Annað mál er það að enn sem komið er hafa almennir fundir á borð við þessa ekkert ákvörðunarvald og geta því ekki nema óbeint haft áhrif á þá stefnu sem tekin er í verkfallinu og samningaviðræðunum. Vald þeirra þarf að aukast, svo óbreyttir félagsmenn geti haft meiri áhrif. - Þetta er jú þeirra barátta.

Fundir hjá SFR.

Á þessum fundum hafa félagar getað fengið upplýsingar um gang verkfallsins, undanþáur, tilraunir til verkfallabrota osfrv. auk upplýsinga um samningstilboðin. Hér er enginn kostur á að gera grein fyrir öllu því sem fram kom á fundunum, aðeins mun þó drepið á nokkur atriði.

Á einum fundinum kom starfsmaður félagsins með tölur um það hverju munaði á lokatilboði BSRB (sem er allmiklu lægri en upphaflega kröfugerðin) og því "lokaboði" sem ríkið setti fram áður en það slitnaði upp úr samningaviðræðum. Við athugun á þeim tölum kemur glöggt í ljós hver alvara liggur að baki orðum forsætisráðherra og fleiri fulltrúa ríkisvaldsins er þeir lýsa yfir einlægum vilja sínum til að "bæta kjör þeirra sem lægst hafa launin". Þessi söngur sem glumið hefur úr herbúðum borgaranna við hverja samninga fer að hljóma falskar, þegar við samanburð á júlílaunum (en komandi samningar gilda aftur fyrir sig til 1. júlí ) samkvæmt síðast a tilboði ríkisins og lokaboði BSRB kemur í ljós að í 5. launaflokki munar um 8. þúsund krónur á þessum tveimur tilboðum í 15. launaflokki munar um 6. þúsund en í 21. launaflokki aðeins um 3. þúsund . Þannig er láglaunastefna borgaranna og handbenda þeirra ætíð í framkvæmd þ.e. mestar hækkanir eru til þeirra hæst í stiganum, en fjöldinn í neðri hluta stigans má ekki hækka í launum.

Það kom einnig fram á fundunum að menn eru almennt mjög óánægðir með störf "ndanþágunefndarinnar" og komu raddir fram

Framhald á síðu 3.



Mynd af verkfallvörðum BSRB að Laugaveg 172, en þar er opið allan sólarhringinn. Félagsmenn BSRB eru hvattir til að mæta og taka þátt í verkfallsvörslunni.

# „Flokkur allra stétta"

Eftir að það slitnaði upp úr samningaviðræðum BSRB og ríkisins og ljóst var að verkfall myndi skella á, gaf fjármálaráðherra út yfirlýsingar um það í fjölmiðlum, hvílíku kostaboði BSRB hefði hafnað. Kom ráðherrann með tölur máli sínu til stuðnings. Þegar menn fóru að athuga þennan málflutning ráðherrans nánar, sást að hann gerði ráð fyrir um það bil 40% verðbólgu þegar hann reiknaði út hvað desemberlaun ríkisstarfsmanna yrðu skv. tilboði ríkisins.

Það hefur ugglaust ekki farið fram hjá neinum hvernig verðbólgubálið hefur geysað síðustu mánuði. Samt er það óneitanlega nokkuð langt gengið, þegar handhafar ríkisvaldsins lýsa því beint yfir að þeir búist við svo mikilli og aukinni verðbólgu á sama tíma og auknar álögur á almenning í landinu og kjaraskerðingar eru allar skýrðar með því: "Að ríkisstjórnin sé að berjast við verðbólguvandann". Orð og efndir þessara manna standast engan veginn á. Því ber þeim að víkja.

## Fullan endurskoðunarrétt.

Þessar yfirlýsingar ráðherrans eru aðeins enn ein staðfesting á því hversu nauðsynlegt ákvæðið um endurskoðunarrétt á samningstímabilinu er. Óðaverðbólgan gerir kjarasamningana fljótlega að gagnlausum pappírum ef vísitölu- og uppsagnarákvæði eru ekki þeim mun skýrari.

Það verður líka að hafa í huga að til að berjast gegn þeirri verðbólgu sem fjármálaráðherra spáir kunna valdhafarnir aðeins eitt ráð: Að skerða kjör verkalýðsins. "Vinstri stjórnin" beitti síðast þeirri aðferð eftir kjarasamningana 1974 að taka vísitöluna úr sambandi, þ.e. að greiða ekki verðbætur á laun vegna óðaverðbólgunnar. Slíkt gæti hæglega gerst aftur, bæði í tíð þeirrar stjórnar sem nú situr við völd og einnig þótt "verkalýðsflokknum" Alþýðubandalaginu yrði lyft á ný upp í ráðherrastóla. Gegn slíkum kjararánsaðferðum verður verður verkalýður og vinnandi alþýða að tryggja sig með skýrum ákvæðum í samningum.

Þess vegna munu ríkisstarfsmenn fella hvert það tilboð sem ekki tekur fullt tillit til kröfunnar um endurskoðunar- og verkfallsrétt á samningstímabilinu. Krónutöluhækkanir án slíkra ákvæða eru einskis virði.

## Hverja styður Morgunblaðið ?

Í áróðri sínum gegn BSRB hefur Morgunblaðið notað ýmsar aðferðir. Auk þess að reyna að sundra innbyrðis samstöðu þeirra með öllum tiltækum ráðum hefur blaðið gengið svo langt að sýna fram á það tölulega hve mikið ríki og bær "græði" á því að opinberir starfsmenn séu í verkfalli.

Þarna er annars vegar reynt að koma þeirri hugmynd að hversu gífurlegur "kostnaður" það sé að greiða opinberum starfsmönnum laun (og þá auðvitað einkum þeim í fjölmennustu flokkunum neðst og um miðbik launastigans.) Einnig er þetta leið blaðsins til að reyna að hræða opinbera starfsmenn til uppgjafar með því að halda því fram að ríkisvaldið vilji nú einmitt sem lengst verkfall BSRB til að geta sparað sem mest.

Þessi skrif blaðsins eru aðeins enn eitt dæmið um það hvernig "blað allra landsmanna" dregur ætíð taum borgaranna gegn verkalýð og vinnandi alþýðu þessa lands.

# Af för Geirs

Framhald af baksíðu

kommúnismans (í daglegu tali kallað kommúnismi) en í sósíalísku ríki hefur öreigastéttin yfirhöndina og drottnar yfir borgarastéttinni ( meirihlutinn drottnar yfir minnihlutanum). Þannig að í sósíalísku ríki eru engar sérstakar verslanir eða fríðindi fyrir þá sem eru t.d. framámenn innan flokksins eða því um líkt.

5) Í Sovétríkjunum mega ferðamenn ekki ferðast án fararstjóra sem teymir þá á milli þeirra staða sem skoða má. Í sósíalískum ríkjum má fólk hins vegar velja á milli hvort það vill ferðast um án fararstjóra og túlks hvert sem er eða nýta sér þann kost að ferðast í hópi og missa þannig ekki af neinu merkilegu sem það annars mundi kannski missa af ( auk þess sem það er betra að hafa túlk í landi þar sem framandi tunga er töluð).

6) Í sjónvarpinu í vetur kom þáttur um Pjotr Grigorenko. Hann var offursti í Rauða hernum og tók virkan þátt í októberbyltingunni. Hann er marxisti-lenínisti og sér að ástandið í landi sínu á ekkert skylt við sósíalisma og vill endurvekja marxíska-lenínska starfshætti. Þess vegna, er hann nú á geðveikrahæli, en KGB (eins og CIA í USA) gegnir því meginhlutverki að elta og uppræta marxista-lenínista. Ef Brésneff og Co. halda eins mikið upp á kenningar Marx og Leníns og þeir vilja vera láta, af hverju leyfa þeir þá ekki marxistum-lenínistum að starfa? Svarið verður óhjákvæmilega: Brésneff og hans fylgifiskar eru ekki kommúnistar, heldur örgustu afturhaldssinnar og hugsa ekki um annað en eigin velferð en láta sér velferð sovéskrar alþýðu í léttu rúmi liggja.

Af þessum sex dæmum ættu menn að geta gert sér ljóst að ástandið í Sovétríkjunum á ekkert skylt við sósíalisma eins og fréttamenn sjónvarps og Mogga vilja vera láta heldur ríkir þarna fasísk einræðisstjórn sem felur sig bak við merki kommúnismans.



Félagarnir Geir og Kosigin ásamt fylgdarliði

II. Tvískinnungur Sjálfstæðisflokksins.

Þegar KFÍ/ML stóð fyrir mótmælafundi fyrir utan sovéska sendiráðið 21. ágúst 1976 í tilefni innrásarinnar í Tékkóslóvakíu 1968 sendi flokkurinn fréttatilkynningu til allra blaða (þar á meðal Moggans) þar sem sagði, að Sovétríkin í dag væru heimsvaldasinnuð og fasísk stjórn sæti þar nú við stjórnvölinn. Sovétmenn mótmæltu fundinum og vísuðu í Helsinkisáttmálann sínum orðum til stuðnings. Vegna ósvífinna mótmæla sovétmanna varði Mogginn heilum leiðara í málið. Þar var ein setningin á þessa leið: "Það er annars merkilegt að samtök sem kenna sig við kommúnisma skuli sjá hvert ástandið í Sovétríkjunum er í dag...." Setningin var lengri en þetta nægir því að með þessum orðum viðurkennir Mogginn allt í einu að ástandið í Sovét sé fasískt. Er þetta í eina skiptið sem greinarhöfundur veit hann gera það því að alltaf síðan sem áður hefur hann sagt hið gagnstæða. En í greininni "Sjálfstæðisflokkurinn og Sovét" í 33. tbl. Stb. um för Geirs til Sovétríkjanna er minnst á lætin í Sjálfstæðisflokknum þegar Samtök Herstöðvaandstæðinga héldu mótmælafund fyrir utan sovéska sendiráðið 21. ágúst síðastliðinn af sama tilefni og Kommúnistaflokkurinn hélt sínar aðgerðir í fyrra. Voru menn í Sjálfstæðisflokknum vægast sagt mjög reiðir yfir því að verið væri að mótmæla því sem Sovétríkin stóðu að 1968. Þetta sýnir tvískinnung Sjálfstæðisflokksins í afstöðu sinni til Sovétríkjanna sem og til margra annarra mála. En greinin í 33. tbl. Stb. afhjúpar þetta berlega og er fólk hvatt til að lesa þessa grein til að kynna sér málin.

III. Mannréttindi í Sovét og á Íslandi.

Við vitum að mannréttindi í Sovétríkjunum eru fótum troðin. En að kalla frásögn af blaðamannafundi Geirs Hallgrímssonar eftir heimkomuna frá Sovétríkjunum, sem birtist í Mogganum 5. okt. "Aðilar mæla mannréttindi sinn með hvorum mælikvarða" er full langt gengið. Að vísu er ástandið langt frá því að vera eins slæmt hér og í Sovét. En ferðahöft eru hér á landi (t.d. þegar fólk fær ekki að fara úr landi nema með visst magn gjaldeyris og getur þ.a.l. ekki staldrað lengi við úti eða að fólk sem ætlar að flytjast út verður að selja búslóð sína hér heima og má ekki fara með andvirðið úr landi og stendur því uppi slyppt og snautt í því landi, sem það fluttist til.). Einnig má nefna að hér á landi hefur legið við að fólk hafi verið sett á Klepp fyrir skoðanir sínar. Jónas frá Hriflu slapp t.d. naumlega úr landi fyrir nokkrum áratugum síðan.

IV. Niðurlag.

Ef fólk kynnir sér málin gaumgæfilega kemst það að raun um að munurinn á aðferðum ráðandi stéttar á Íslandi og þeirrar, sem ræður í Sovétríkjunum er stigsmunur en ekki eðlismunur. Við skulum ekki láta borgaralega fjölmiðla ljúga að okkur, heldur skulum við draga okkar eigin ályktanir með því að kynna okkur málin frá öllum hliðum á gagnrýninn hátt. Í því sambandi má t.d. skoða ástandið í hinum sósíalísku löndum heims, þar sem hinn vinnandi meirihluti ræður ferðinni í raun og veru í stað þess sem er, þar sem borgaralegt lýðræði er við lýði, en það felst einungis í því, að við fáum að kjósa menn til að stjórna fyrir okkur og stjórna okkur á fjögurra ár fresti. Í Sovétríkjunum er hins vegar hvorki um borgaralegt né sósíalískt lýðræði að ræða, heldur fasískt einræði.

## Af fjölmiðlum

Í Mogganum 13. okt. er sagt í leiðara að það sé fáránlegt að t.d. háskólinn og fleiri skólar eru lokaðir vegna þess eins að húsverðir eru í verkfalli (undirstr. Stb). Mogginn vill að kennsla hefjist strax í dag. Af því mundi leiða gífurleg mismunun á námsfólki þar sem meginþorri námsfólks þarf á strætó að halda til að komast í skólana auk þess sem dagheimil eru lokuð þannig að margir námsmenn mundu ekki eiga heimangengt þess vegna. En moggasnápum er alveg sama um það. Tilgangur þeirra er að veikja verkfall opinberra starfsmanna starfsmanna og enginn annar því að ef kennsla hæfist áður en verkfallinu lyki væri verkfall húsvarða þar með dottið um sjálft sig og án tilgangs lengur. Námsfólk! Sá sem þetta skrifar er sjálfur námsmaður og þykir að sjálfsögðu æskilegast að kennsla falli ekki niður. En ef skólarnir opnuðu nú skyndilega mætum við ekki! Með því gerum við tvennt: Við sýnum samstöðu með BSRB og útilokum mismunun á námsfólki.



## ...í Stuttu máli

### Pólskur stúdent myrtur.

Í vor lést í fangelsi í Póllandi ungur stúdent, Stanislav Pyjas.

Dauði hans leiddi til mikilla mótmælaaðgerða í Ksakow í vor. Þessi 23 ára gamli bókmenntasögunemi hafði verið virkur félagi í Varnarnefnd verkalýðsins, sem ma. hefur safnað fé til styrktar verkamönnum sem fangelsaðir voru í fyrra vegna mótmælanna gegn matvöruhækkununum.

Dómsrannsókn hefur, að sögn yfirvalda í Ksakow, ekki leitt í ljós neitt ólöglegt varðandi lát Stanislavs.

Lögreglan staðhæfir að Stanislav hafi verið drukkinn, dottið og drukknað í eigin blóði. Yfirvöld í Ksakow hafa látið hafa eftir sér að allt bendi til að þetta sé rétt skýring.

Eftir mótmælagöngu um miðjan maí sl. voru leiðtogar Varnarnefndar verkalýðsins handteknir og kærðir fyrir að hafa æst til pólitískra uppþota. Þeir voru látnir lausir í júlí. Mótmælagangan var blysför og gengið var þegjandi um götur Ksakow eins og sagt er í fréttum.

Yfirvöld reyndu að afgreiða morðið sem "slys". Í sjálfu sér var það sigur andstöðuaflanna að yfirvöld neyddust til að láta fara fram rannsókn á dauða Stanislavs, þrátt fyrir að vitað væri að rannsóknin leiddi ekki sannleikann í ljós.

Alveg frá fyrsta degi var það gefin sem skýring yfirvalda að þetta hefði verið "slys". Að sjálfsögðu trúa fáir þessari skýringu. Það sýndi m.a. í fimm þúsund manna mótmæla- eða sorgargöngunni í Ksakow.

Framhald af síðu 2.

# BSRB: Verkfallsfundir í félögunum

um beri að bæta fjórðu höfuðkröfunni, þess efis að lögum verði breytt, og vald til undanþáguveitinga í verkfalli BSRB verði dregið úr höndum ríkisvaldsins og BSRB sjái eitt um þau mál. Störf nefndarinnar í yfirstandandi verkfalli hafa líka sýnt að hún hefur farið langt út fyrir löglegt verksvið sitt í ýmsum málum og dregið taum ríkisvaldsins í hvívetna.

Ýmis önnur mál komu upp á þessum fundum s.s. gagnrýni á stjórnum verkfallsins út um land þar sem bæjarstarfsmenn hafa hætt verkfalli á fjölmörgum stöðum er erfiðara fyrir ríkisstarfsmennina á þessum stöðum að standa áfram í baráttunni. Einnig kom fram sú gagnrýni að of mikið hafði verið slegið af upphaflegu kaupkröfunum miðað við það að ríkisvaldið hefur enn ekki sýnt lit í að bjóða eitthvað raunhæft á móti. Komu fram hugmyndir um að nú væri rétt að hækka kröfur BSRB aftur þar sem verkfall væri skollið á . Á fundunum kom einnig fram óánægja með það hvernig ríki og bæjarfélög hafa notað samningana við bæjarstarfsmenn til að reyna að reka fleyg í eininguna og vareinkum rætt um smánarlegar aðferðir formanna Starfsmannafélags Reykjavíkurborgar í því sambandi. Mun það mál verða tekið nánar fyrir annars staðar í blaðinu.

Framhald af forsíðu.

# Landsráðstefna Samtaka Herstöðvaandstæðinga

að gæta . Þá var samþykkt ályktun í tilefni af að undanfarið hefur verið reynt að halda því mjög fram að aðgerðirnar 21. ágúst hafi ekki speglað vilja herstöðvaandstæðinga. Í ályktuninni kom fram greinilegur stuðningur við stefnu miðnefndar þá. Ályktunin ítrekaði andstöðu SHA við alla heimsvaldastefnu og drottnunarstefnu risaveldanna og ítrekaði fordæmingu sína á innrás Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu. Ályktanir verða birtar síðar í Stéttabaráttunni og þá sagt frekar frá landsþinginu. Ný miðnefnd var kosin og eiga sæti í henni 12 aðalmenn og 12 varamenn. Hún á eftir að skipta með sér verkum og kjósa sér formann. Aðalmenn eru Árni Björnsson Árni Hjartarson, Ásmundur Ásmundsson, Friðgeir Björnsson, Guðsteinn Þengilsson, Gunnar Andrésson, Hörður Zophoníasson, Jóhann Guðjónsson, Jónas Jónsson, Kristján Bersi Ólafsson, Reynir Sigurðsson, Rósa Steingrímsdóttir. Varamenn eru Andri Ísakson Ástríður Karlsdóttir, Borgþór Kærnested, Einar Jónsson, Elías Davíðsson, Elsa Benediktsdóttir, Gils Guðmundsson, Halldór Guðmundsson, Haukur Sigurðsson Jón Hannesson, Páll Lýðsson Soffía Sigurðardóttir.



Frá aðgerðum Samtaka Herstöðvaandstæðinga fyrir utan sovéska sendiráðið 21. ágúst s.l.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
36. tbl. 18/10. 1977

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður
Ingi Andrésson.

# Af för Geirs

Um sögulegan misskilning borgaralegra fréttamanna og samtvinnað eðli íslenskrar borgarastéttar og Kremlverja.

I. Hvers eðlis er ástandið í Sovétríkjunum?

Föstudaginn 7. október var þáttur í sjónvarpinu, sem sjónvarpsmenn gerðu um Sovétríkin þegar þeir voru þar á ferð sem hluti af "friðu" föruneyti Geirs Hallgrímssonar, sem fyrstur íslenskra forsætisráðherra fór í opinbera heimsókn þangað. Í málgagni flokks ráðherrans laugardaginn 8. október skrifar Magnús nokkur Finnsson um reynslu sína af förinni til Sovétríkjanna, en hann mun einnig hafa fengið að leggja land undir fót sem blaðamaður. Bæði sjónvarpsþátturinn og greinin í Mogganum voru að sama marki brennd: Að útmála ástandið í Sovétríkjunum sem dæmi um kommúnisma í framkvæmd. Með þessu er ekki átt við, að farið hafi verið með lygar frá upphafi til enda, heldur í hvernig búning ýmsar staðreyndir eru færðar. Verða hér nefnd 4 dæmi úr fyrrnefndum fjölmiðlum auk tveggja annarra, sem ætti að nægja til að sýna fram á í fyrsta lagi mat borgaralegra fréttamanna á ýmsum hlutum og í öðru lagi hvert ástandið í Sovétríkjunum er í raun og veru.

1) Magnús Finnsson talar um guðinn Lenín, sem alls staðar er nálægur (undirstr. Stb.). Marxistar-lenínistar líta svo á sem efnishyggjumenn, að persónudýrkun sé fáránleg og engum marxista-lenínista dettur í hug að tigna einhvern af frumkvöðlum marxismans-lenínismans sem guð eða eitthvað slíkt (enda er slík fyrirbæri ekki til!). Í Sovétríkjunum á persónudýrkun sér hins vegar stað og mun það sennilega vera það, sem Magnús er að benda á með þessum hætti.

2) Magnús nefnir tölur um laun þriggja starfshópa í Sovétríkjunum; lækna, verkafólks og fréttamanna. Höfundur þessarar greinar er fyllilega sammála því, að verkafólk, sem skapar með störfum sínum gildisauka og ber þannig hvert þjóðfélag uppi, hafi lág laun. En að blaðamenn og aðrir, sem sjá um fréttaöflun eða vinna skyld störf hafi meir en tvöfalt kaup á við verkafólk finnst greinarhöfundi fáránlegt (sem Magnúsi finnst hins vegar bæði eðlilegt og sjálfsagt) í landi þar sem ræikisstjórnin segist vera að framkvæma sósíalisma. Skv. þessu eru störf þessara manna svona gífurlega mikilvæg. En í landi þar sem 60 ár eru liðin frá sósíalískri byltingu ætti að hafa tekist að mennta alþýðuna það vel í sósíalískum fræðum (sbr. menningarbyltingarnar í Kína), að áróðursmeistarar ættu ekki að hafa svona stóru hlutverki að gegna. En af hverju eru þeir þá metnir svona mikils af flokknum? Svarið er einfalt: Þeir eru til þess að ljúga að fólki að ástandið í landinu sé bæði gott og sósíalískt eins og það gerist best.

3) Í bæði Mogga og sjónvarpi kom fram, að ekki má taka sjálfsagðar myndir eins og af börnum að leik eða farþegaflugvélum o.s.frv. Sósíalískt land þarf ekki að fela jafn sjálfsagða hluti. Í t.d. Kína má taka myndir hvar sem er af næstum hverju sem er (til eru í sósíalískum ríkjum sem og í kapítalískum skjöl o.fl., sem ekki þykir æskilegt að óvinir viðkomandi lands fái að komast í). En langflest annað ætti að vera stolt hvers sósíalísks ríkis, sem sýndi hversu langt það væri komið fram úr hinum kapítalísku.

4) Í sjónvarpinu var minnst á, að tvenns konar verslanir eru í Sovétríkjunum, þ.e. verslanir fyrir alþýðuna og svo aðrar sérstakar fyrir nýju yfirstéttina í landinu þar sem margt er á boðstólum sem ekki finnst í hinum verslununum og er mun ódýrara en þar. Nú hafa stéttir ekki verið afnumdar með sósíalískri byltingu. Stéttabaráttan geisar áfram fram að æðra stigi

Framhald á síðu 3.



framh. af forsíðu.

# Grænlandsvinafélag stofnað

verða það líklega í starfi þess, því þau voru bæði kosin í stjórn. Guðmundur rakti skilmerkilega ástandið á Grænlandi og þá sérstaklega kúgunina. Danir hefðu þrengt svokallaðri vestrænni menningu upp á Grænlendinga og því fylgir að sjálfsögðu hnignun þjóðlegrar menningar, vinneysla, kynsjúkdómar osfrv. Um 20-30 manns stunda framhaldsnám af um 40.000 manna þjóð. Danir halda niðri menntun þjóðarinnar, því þeir vita sem er, að ef grænlenska þjóðin tæki upp á því að fara að berjast með alvöru fyrir sjálfstæði, yrði fljótt úti um það ástand sem á Grænlandi ríkir og þá jafnframt danskt arðrán. Guðmundur sagði að Grænlendingar teldu Íslendinga vera sína mestu vinaþjóð og það hefði komið skýrt fram í stuðningi þeirra við okkur í landhelgisstríðinu. Hann sagði að efla yrði menningartengsl, tengsl á íþróttasviðinu og gera yrði Grænlendingum kleift að stunda nám hérlendis. Því jafnvel þeim Grænlendingum sem kæmust það langt að geta stundað nám í Danmörku væri gert erfitt fyrir þar á margan hátt. Grænlenska menningarvikan sem haldin var í fyrrahaust og sló öll met í aðsókn væri jákvætt skref til eflingar vináttutengsla þjóðanna. Viljinn er fyrir hendi hjá báðum aðilum og okkar verk er að virkja þennan vilja. Þannig lauk Guðmundur máli sínu. Á fundinum stigu margir í pontu og höfðu frá mörgu fróðlegu að segja. Benti t.d. Magnús Kjartansson fyrrv. ráðherra á það að Danir myndu, þrátt fyrir það að Grænlendingar fengju heimastjórn, ráða auðlindum Grænlands. Magnús fór sjálfur til Grænlands og nefndi hann dæmi um nauðungarflutninga og nýlenduástand sem hann varð var við og veit að er enn. Hann telur ástandið á Grænlandi smánarblett á norðurlöndum.

Eins og fyrr segir þá kom margt markvert fram á fundinum en of langt mál yrði að telja það upp hér. Marmið félagsins er að leitast við að virkja sem flesta er ljá vilja Grænlendingum stuðning í frelsis- og sjálfstæðisbaráttu sinni. Samskipti við Grænlendinga er það sem verður að efla og þá á þann hátt að bæði Íslendingar og Grænlendingar hefðu hag af. Þau samskipti hafa oft viljað vera á þá leið að Íslendingar hafi viljað gera sér mat úr Grænlendingum og græða á þeim. Sjálfstæði og frelsi til handa grænlenskri alþýðu fæst ekki fram nema fyrir tilstilli og baráttu hennar sjálfrar. En þessi barátta þarf á öllum mögulegum stuðningi að halda. Fyrir dönskum áróðri um Grænland verðum við að vera vel vakandi og eins því hvernig íslenska íhaldið styður það danska í því efni.

Sú þjónkun við dönsku kúgarana hefur gengið svo langt að þeir hafa jafnvel neitað að sýna í íslenska sjónvarpinu grænlenskar fræðslumyndir um Grænland og ástandið þar. Íslenska íhaldið hefur staðið gegn fullri aðild Grænlands að Norðurlandaráði og sú staðreynd er stór blettur á íslenskri utanríkispólitík. Magnús Kjartansson hefur staðið manna mest í þeirri baráttu að Grænlendingar fái aðild að Norðurlandaráði og fyrir það á hann þökk skilið.

Í lok fundarins var Grænlandsvinafélagið formlega stofnað og því gefið nafnið Inuit sem þýðir manneskjur. Stofnfélagar í Reykjavík voru 116 en þess má geta að milli 40-50 manns á Neskaupstað héldu Grænlandsvinastofnfund hjá sér í fyrra og teljast því einnig til stofnfélaga. Stutt og laggóð stefnuskrá var samþykkt og stjórn kosin. Var Guðmundur Þorsteinsson kosinn formaður. Félagið mun gefa út blað með fréttum frá Grænlandi og það krefst þess að almennir félagar séu virkir. Stéttabaráttan skorar á fólk að ganga í Inúít til eflingar vináttutengslum Íslendinga og Grænlendinga. Sími Guðmundar formanns er 76241.



## Stéttabaráttan

Eins og velunnarar blaðsins hafa væntanlega orðið varir við hefur áskriftasöfnunin ekki gengið sem skyldi að ártlun. Einnig hefur lausasöluaukningin ekki náð því marki sem stefnt var að. Þegar svo er komið sér ritnefnd blaðsins sig knúna til að framlengja herferðinni fram til áramóta í þeirri von að fólk taki sig nú reglulega á og leiðrétti þau mistök sem hér hafa átt sér stað í starfinu. Með samstilltu átaki mun árangurinn ekki láta á sér standa.

Hamarinn mun sýna aukningu lausasölunnar, frá því sem nú er. Sigðin sýnir nýja áskrifendur blaðsins.

Félagar og aðrir velunnarar blaðsins skulu póstsenda nýjar áskriftir til :

Rauðu Stjörnunnar, Lindagötu 15. Rvk. Pósthólf 1357.
Einnig má hringja í síma 27810 milli klukkan 15 og 18.




## Tilkynning

Tilkynning um menningarsamskipti Íslands og Alþýðulýðveldisins Kóreu.

Undirrituðum hafa borist óskir um það frá sendiráði Alþýðulýðveldisins Kóreu í Stokkhólmi, að Íslendingar, sem hafa áhuga á auknum samskiptum milli landanna, sendi inn nöfn sín og heimilisfang. Munu þeir fá sent fræðsluefni í framtíðinni.

Séu einhverjir, sem áhuga hafa á þessu máli, eru þeir beðnir að hafa samband við undirritaðan eftir kl. 19.

Arnþór Helgason, Fornhaga 11, Reykjavík.
Sími 12943.